# Auka-skýrsla

frá

# Sudur-Amtsins Húss- og Bú-stjórnar félagi

um

Eystra- edur Gnúpverja-hrepps manna

## Tún- og jarda-bóta félag

stofnsett 6ta Júníi

1843

m. fl.

---

Reykjavík 1845.

Prentad á félagsins kostnad,

af Helga Helgasyni.

Þess er vidgétid á blf. 13—15 í „Skýrslu" þeirri, sem eg í haust ed var samdi, „um Sudur-Amtsins „Húss- og Bú-stjórnar félags athafnir, ástand og „fjárhag fram til September mánadar" árid sem leid: ad félagsins fulltrúi í Arness sýslu, Herra Kammer-ráð Sýslumadur Melsted, R. af Dbr., hafi á seinasta Júlii mánadar móti munnlega gefid félaginu ávísun um, ad í Gnúpverjahrepp, í sýslu hans, væri stofnsett jardabóta félag, þó einúngis fyrir þá sveit, sem vera vildi í samverkun og sambandi vid Sudur-Amtsins Húss- og Bú-stjórnar félag; lofadi hann þá skriflegri skýrslu um sambands-félags þessa stiftun, løg og athafnir, og hefir nú trúlega efnt þetta heit sitt, med bréfi sínu frá 3ja í seinasta mánudi, hvørju fylgir greinileg frásága um allt þad, er sambands félagi þessu vidkom, og løg þess; hefir og Kammerrádid í bréfi sínu óskad þess, ad løg þessa ens nýa sveitar félags verdi, ad tilhlutun félags vors, auglýst almenníngi, þared hann viti von til þess, ad fleyri sveitir í sýslu hans muni fylgja vilja Gnúpverjahreppsins góda dæmi, þegar þær sjái samþyktir Gnúp-

verjahrepps manna, svo þær géti hast þessar til fyr-irmyndar. Suður-Amtsins Húss- og Bú-stjórnar félag hefir því síður viljað leggja þessa ósk fulltrúa síns undir höfuð sér, sem það hefir sömu vonir sem hann; og svo hið géfna dæmi géti verkað í öllu Suð-ur-umdæminu í einu, var það á félagsmótinu 28da í mánaðinum sem leið, staðráðið, að láta prenta auka-skýrslu um þetta efni, til géfins útbýtingar, í Suð-ur-umdæminu. Skýrsla fulltrúans og samþyktir Gnúp-verjahrepps manna eru svo látandi:

„Sumarið 1843 var á stofn sett Félag nokkurt í „Gnúpverjahrepp innan Arness Sýslu, er miðar til „að efla jarðarrækt og þaraf fljótandi velmegun, og „nefnir sig Eystrahrepps manna „Tún og Jarða-„bóta-félag". Fyrsti frumkvöðull til félagsins stofn-„unar var Forlíkunarmaður Guðmundur Þorsteinsson „á Hlíð, sem í því skyni ritaði frumvarp nokkurt, þess „efnis, að áhýsa sveitúnga sína til að stofna Félag, „til eflingar búsljórn og landrækt í sveitinni, í hvörju „skyni félagslimir skyldu leggja til sitt dagsverkið hvörr, „eða fleiri, til að vinna að jarðarbótum þar sem hag-„anlegast þækti og menn kjæmu sér saman um í sveit-„inni. Þetta frumvarp afhendti hann Prestinum Sra. „Guðmundi Vigfússyni á Stóranúpi, hvörr síðan „með staklegri alúð, greind og dugnaði hefur leitast við „að efla það augnamið, er frumvarpið miðar til. „Presturinn ritaði þareptir, í sameiningu með Hrepp-„stjóranum Guðmundi Magnússyni á Minnahofi,

„øllum sveitarbúum bodsbréf, hvarí þeim var frambodin „hlutdeild í nefndum félagskap; og þann 6ta Júní 1843, „á Hreppskilafundi, var félagid stofnsett med 15 fé- „lagslimum. Þá var og framlagt til yfirskodunar frum- „varp til félagslaga. Þann 13. Oct. s. á. var fyrsti „félagsfundur haldin og voru þá félagslimir ordnir 25 „ad tølu *). Á þessum fundi var Presturinn Sra. „Gudmundur Vigfússon á Stóranúpi valin fyrir „félags forseta, bóndinn Þórdur Olafsson á Steins- „holti fyrir aukaforseta og Hreppstjóri Gudmundur „Magnússon á Minnahofi og Forlíkunarmadur „Gudmundur Þorsteinsson á Hlíd fyrir félags full- „trúa. Á þessum fundi var af félagslimum heitid 28 „dagsverkum árlega til jardabóta, og samþykt ad fé- „lagsmenn skyldu í 3 deildum vinna ad jardabótum á „3 jørdum í sveitinni næstkomandi sumar; og vóru „med atkvæda fjølda til þess teknar jardirnar Hæll, „Stórumástúngur og Stórinúpur og nidurskipt hvad- „an félagsvinnan skyldi framfara á hvørri af þessum 3 „jørdum fyrir sig. Þá vóru og einnig samþykt eptirfylgjandi

## Løg
### fyrir félagid.

### § 1.

„Fyrst og fremst skal félagid med rádum og dád „studla til ad túnin á sem flestum jørdum í sveitinni

*) Í sveitinni munu vera alls 31 býli.

„fái þá endurbót, sem ordid getur, bædi med griphelds „um girdingum — úr grjóti þarsem því verdur vid= „komid, en ella úr ødru efni sem best eru faung á — „og lika med þúfnaslettun þar, sem þess þykir vid= „þurfa; sømuleidis vill þad einnig eptir megni og „møgulegleikum bædi taka hlutdeild í og uppørfa til „annara sérdeilis naudsynlegra jardabóta, t. a. m. vatns „veitinga af slægjulandi, til ad finna upp varnarmedal „vid sandfoki, skridum og árennsli og svo frv;

§ 2.

„Medlimir félags þessa, sem ætlad er til ad yfir= „grípi Gnúpverjahrepp, skulu kallast reglulimir; en „beidist adrir félagsskapar útífrá, eda gjøri því þann „greida, sem ekki samgyldir fullkomnum félagslims vid= „tøkueyri (þó innansveitar sé) þá sé sá aukalimur og „hafi ekki atkvæda rétt.

§ 3.

„Reglulimir félags þessa skulu þeir af innbúum „Gnúpverjahrepps, sem stydja ad framkvæmdum þess „annadhvørt med einu (eda fleyrum) dagsverki árlega, „sem greidt sé á tímabilinu frá 20ta Maii til 30ta „Júnii, eda 2ur ad hausti frá Mikaelsmessu til haust= „nótta, eda gefur því árlega þess samgyldi í pening= „um eptir þess þá yfirstandandi árs Capitulstaxta.

§ 4.

„Sé einhvør sá óbúsettur eda í hjúastétt, sem

„girnist ad eiga hlutdeild í nefndum félagsskap, en er „þess þó ei umkominn ad láta vinnu í té, skal hann tel- „jast reglulimur, ef hann árlega greidir þann tiltekna „tillagseyrir í peníngum eda þá 5rbd. silfurmyntar „einusinni fyrir øll.

§ 5.

„Allar gjafir meiri og minni, hvørt sem vera skulu „í vinnu, peníngum eda ødrum aurum, þiggur félagid „þakklátlega og nun þess gétid sem gjørt er.

§ 6.

„Þeir menn, sem hafa skuldbundid sig til ad greida „árlegt peníngatillag, skulu enu sama lokid hafa til fé- „lagsstjórnarinnar fyrir hvørs árs sumarmál, og skal „forseti kvittera í hennar nafni fyrir móttøkuna.

§ 7.

„Séu nokkrir þeir í bændarød edur búsitjenda, „er bundist hafa árlegu tillagi í vinnu, en stada þeirra „leyfi þeim ekki ad greida þad þannig (in natura) „þad árid, skulu þeir géfa félagsstjórninni þad til vit- „undar, þegar haldin er fundur ad vordøgum, og gjalda „samgyldi þess annadhvørt í landaurum eda peníngum „eptir þess árs Capitulstaxta, svo annar verkamadur „verdi leigdur í hans stad.

§ 8.

„Hvørjum einum sé heimilt ad segja sig úr fé-

„laginu þegar hann vill; þó hlýtur sú uppsøgn að ské „skriflega til félagsstjórnarinnar fyrir sumarmál þess árs, „sem hann æskir burtgaungu úr félaginu, því annars „verdur hann ad gjalda" tillag sitt það árið.

§ 9.

„Flytji nokkur félagslimur burt úr bygdarlaginu, „telst hann samt félagsins aukalimur, svo lengi sem „hann greidir venjulegt tillag, en atkvædarétt getur „hann ekki fengid.

§ 10.

„Hvørr sem med heityrdi um árlegt tillag annað, „hvørt í vinnu eda peníngum hefir áunnid sér rétt sem „reglulimur, en tregdast ad greida það optar enn einu „sinni, má ad tilhlutun stjórnarinnar útilokast úr félag„inu, nema hann sjái sig um hønd og efni ad fullu „skuldbindíng sína.

§ 11.

„Til umsjónarmanna skulu veljast 4 menn af fé„lagsins reglulimum, nefnil. forseti, aukaforseti og 2 „fulltrúar, og skal einn þeirra 3ja sídarnefndu ætíd vera „búsettur í Hreppshóla sókn; þessir menn skulu valdir „af reglulimum félagsins, sem allir hafa atkvædisrétt á „félagsins adalfundi, og skal hvørr um sig skyldur „til ad hafa þessa sýslun á hendi í hid minnsta „í 3 ár.

§ 12.

„Félagsins adalmót eda fundur skal árlega hald-
„inn vera á tímabilinu frá 30ta Apríl til 14da Maii,
„og hlýtur forseti fyrirfram ad gefa skriflega ávísun um
„stad og tíma til mótsins; skulu þar allir reglulimir
„mæta, ef þeir ekki vilja missa atkvædisrétt. Þó meiga
„þeir félagslimir, sem einhvørra sérdeilis orsaka vegna
„ekki géta sókt fundinn, láta vilja sinn í ljósi med skrif-
„legu ávarpi til félagsstjórnarinnar. Á þessum fundi
„skal fyrst velja embættismenn med atkvædum, í þad
„skiptid, sem løgin ákveda, og sídan skal gánga til
„atkvæda um þad, hjá hvørjum helst, einum eda fleir-
„um af félagsins medlimum, félagid skal vinna ad
„jardbótum þad árid, því á hvørju ári skal þad eitt-
„hvad adhafast.

§ 13.

„Verdi tilløg félagslima svo mikil ad þau nemi
„30 dagsverkum, skal þeim skipta í 3 deildir eda fleiri,
„ef félagsstjórnin álítur þad hagkvæmara, svoleidis ad á 3
„jørdum (eda fleirum) verdi unnid í senn ad jardbótum.

§ 14.

„Hvørgi skal vinna ad jardbótum nema á ábýl-
„um félagslima, nema svo sé ad eigendur jardanna, sem
„búsettir eru utansveitis, hafi veitt félaginu búsfyrk nokk-
„urn, eda gjørst þess aukalimir; ekki heldur géta at-
„hafnir félagsins nád nema til sveitarinnar innbúa.

## § 15.

„Atkvædin skulu gefin skriflega á samanbrotnum „sedlum, hvörjum aukaforsetinn veitir móttöku og les „svo hátt í áheyrn reglulima, þegar þau eru öll inn„komin; en forseti teiknar nøfn þeirra kjørnu og þar „útundan hvad mørg atkvædi hvørr hefir feingid, og „leggur sídan saman, svo sjá megi hvad mørg hvørr hefir.

## § 16.

„Atkvædi séu skír og vafalaus og hérumbil ordud „á þessa leid: fyrir forseta vel eg þann eda þann med „nafni; fyrir aukaforseta vel eg þann eda þann med „nafni, og fyrir fulltrúa vel eg þ. eda þ. med nafni; „og med líkum hætti skal orda atkvædi þau, sem lúta „ad því, hvør eda hvørjar jardir félagsins adstodar „skulu adnjóta í þad skiptid; t. d. á þessari jørd med „nafni vil eg félagid vinni ad jardbótum þetta árid, „og skal svo forseti og aukaforseti sømu adferd vidhafa „sem ádur er sagt.

## § 17.

„Fái nú fleiri reglulimir eda ábýli jafnmørg at„kvædi, skal varpa hlutkésti um hvørr forgángsrétt„inn hafa eigi.

## § 18.

„Svo er tilætlad ad hvørr landseti eda félags„limur, sem félagid vinnur hjá, géfi verkamønnum „sæmilegt fædi, ad minnsta kosti einusinni á dag.

§ 19.

„Sé nokkur landseti svo úmkomulítill, ad hann „ekki megni ad fæda verkamennina á medan á vinn„unni stendur, verdur hann ad láta slíkt í ljósi strax á „vorfundinum, svo félagsstjórnin annadhvørt hlutist til, „ad sá, sem félagsins vinna átti ad hlotnast, verdi „styrktur med einhvørju móti til ad géta notid hennar, „eda hún lendi hjá ødrum, sem nærstur honum var „ad adkvæda tølu.

§ 20.

„Stjórn félagsins skal sérlega umønnun bera fyr„ir athøfnum þess og ástandi.

§ 21.

„Forsetinn stjórni øllum þess athøfnum og ráð„sløgunum á adalfundinum og sjái til, ad reglusemi sé „vidhøfd í øllu tilliti, í hvørju aukaforsetanum ber „einnig ad vera honum hjálplegur; komi nokkur á„greiníngur á fundinum ber þeim samtaka ad midla „málum og beri nokkud vandamál ad høndum, skal „einnig beidast fulltrúanna álits þar um, enda kvedja „fleiri til, ef þorf krefur. Forsetinn hafi øll bréfleg „størf á hendi fyrir félagid; hann haldi bók eina inn„bundna, vel um vandada, innsiglada, løggildta og „gégnumdreigna af hlutadeigandi Sýslumanni, sem út„vegud sé á félagsins kostnad; skal hann þarí ókeypis „rita samþyktir og athafnir félagsins bædi á vorfund„inum og eins endrarnær; þarí skulu einnig árlega „innfærast nøfn félagsins medlima, sem og þeirra árleg

„tillög og hvad eina, sem ad félaginu er hlynnt því til
„hagsmuna; og loksins skal hann í hana rita yfirlit
„yfir þad, hvörnig eda hvar til félagsins tekjum sé
„varid hvört ár, sem og hvörnig störf þess séu af hendi
„leyst, í hvörju tilliti hann á ad njóta aukaforsetans
„og fulltrúanna adstödar.

§ 22.

„Aukaforsetinn sé forsetanum svo lidsinntur sem
„ordid getur; þegar búid er med atkvædum ad ákveda
„þad á fundinum, hvör eda hvörjar jardir njóta skuli
„vinnu eda adstodar félagsins þad árid, skal aukafor-
„setinn ásamt fulltrúunum hlutast til, hvörjum þessara
„hvörr um sig greida skuli dagsverk sitt (sín); sem
„og ad hann leysi forsvaranlega af hendi þad tillag,
„sem hann hefir heitid, samt sé hlutadeigendum hjálp-
„legur til ad útvega menn fyrir fullkomid kaup, verk-
„inu til framkvæmdar, ef þeir géta þá ekki sjálfir til-
„lagt; hann skal einnig ásamt fulltrúunum vera í
„rádum med hvörjum landseta, hvada jardabót hann
„skuli fyrst fyrirtaka, eda hvörnig hann skuli henni
„tilhaga svo best meigi fara, og má einginn misvyrda
„tillögur þeirra í því tilliti. Þeim ber samtaka ad
„annast um, ad einginn dragi sig í hlé eda komist hjá
„ad efna þad heityrdi, sem hann hefir géfid félaginu
„til hagsmuna; fái þad nokkur tillög í peníngum eda
„landaurum, skal aukaforsetinn veita þeim móttöku og
„vardveita þau, skíra samt forsetanum frá því, svo
„hann géti kvitterad fyrir hönd félagsstjórnarinnar, og

„nema þessar peninga- og landaura-tillögur meiru enn „því, sem naudsynlegt er til sérlegra útgjalda, hvarum „skilagrein verdur bókud og framlögd, skal stjórnin „samtaka hlutast til, ad daglaunamenn verdi feingnir til „ad vinna fyrir félagid og á þess kostnad, því ekki „hefur félagid sem stendur þann ásetníng ad safna sér „sjódi til ávaxtar.

§ 23.

„Þegar félagid hefir endad starfa sinn í hvört „skipti, skal þad enn fremur vera aukaforsetans og full- „trúanna skylda fyrir næstu veturnætur ad yfirlíta at- „hafnir og framkvæmdir félagsins á hvörri jördu, sem „þad hefir unnid á þad árid; skulu þeir mæla stærd „eda ummál verksins, hvört heldur þad er sléttadur „reitur, nýhladinn gardur edur önnur jardabót; líka „skulu þeir nákvæmlega líta eptir, hvörnig verkid er „af hendi leyst og semja þarum áreidanlega skýrslu eptir „bestu samvitsku, sem sé undirskrifud af þeim öllum, „hvörrar innihald forsetanum ber ad færa til bókar svo „greinilega sem ordid getur, og skal svo öll félags- „stjórnin undir þad skrifa, eins og skírteini þad „sem bókad verdur um athafnir og rádslaganir félags- „ins á vorfundinum; en álitsskjal aukaforseta og fulltrú- „anna fylgi sídan bókinni sem auka- eda fylgiskjal í „vördslu forseta.

§ 24.

„Ad svo búnu skal forsetinn vid árslokin senda „hlutadeigandi Sýslumanni útdrátt af félagsbókinni,

„hvørs áreidanlegleiki sé sannadur med hans egin und-
„ir-skrift.

§ 25.

„Þyki nokkrum reglulima eda félagslima einhvør
„grein laganna þurfa umbótar vid, eda vilji hann
„stínga uppá einhvørju nýmæli, til frama og eblíngar
„félagsins heilla, skal hann annadhvørt bera slíkt upp á
„félagsfundinum, eda þá endrarnær fyrir einhvørjum af
„medlimum félagsstjórnarinnar og byrjar svo forseta sídar
„ad leita álits félagslima þar um".

Þannig hljóda nú samþyktir Gnúpverjahrepps manna, og hefi eg þar engu vid ad auka, nema þeirri ósk minni, ad vidlík kjærleiksfull sambønd mættu hefjast í sem flestum sveitum umdæmis þessa; er þad líka von mín, ad ósk sú rætist, því í fleiri sveitum eru einn eda fleiri þeir duganðismenn, sem hvørki mun skorta vit né vilja til ad gángast fyrir því, sem sveit-arféløgum þeirra má ad haldi koma, jafnt ríkum sem fátækum, og sómasamlegt er, einkum þegar þeim er sýnt dæmid og vegurinn ad því. Er þad þá bædi sómi og ánægja þeim heidursmønnum í Gnúpverja-hrepp, sem fyrstir tóku upp á þessu, ad sjá adra breyta eptir sér, og vita framtakssemi sína þannig vinna vídar gagn, enn á einum stad.

Því einu vil eg hér vidauka, ad ef slík sveitar-féløg verda fleiri á stofn sett, þækti mér vel tilfallid, ad félagsstjórnendur létu á hentugum stad í midri sveit, slétta túnreit nokkurn og hlada túngard, hæfilega láng-

an hvørtveggja svo vandad ad allri gjørd, sem best gétur ordid, og sé þetta hvørt um sig, sem fyrirmind alls þess, sem sídar gjørist í þessum efnum, svo þar eptir sé dæmt um, hvørt þad sé vel af hendi leyst edur eigi.

Ad endíngu þessa máls, ber mér ad vidkannast, ad eg í Skýrslunni í haust hafi ránghermt, þarsem eg bls. 14 segi, ad félags stjórnin í Gnúpverjahrepp egi ad tiltaka á hvørjum bæum sveitarinnar tún= eda jardar=bætur skuli framfara þad eda þad árid, því eptir laganna 12tu grein hér ad framan, er þad, sem betur fer, ekki félagsstjórnin sem tiltekur þad, heldur atkvæda fjøldi félagsmanna; má þetta vera komid, ef ekki af ógreinilegri frásøgn þess, er munnlega skýrdi frá innihaldi laganna, þá þó af rángri eptirtekt minni, á hvørri eg má bidja velvirdíngar. Hvørki honum né mér munu løg þessi þá hafa verid kunnug, nema af søgusøgn.

---

Þann 28da dag mánadarins sem leid, var sem ádur er sagt mót haldid í Sudur=Amtsins Húss= og Bú=stjórnar félagi; var þá úthlutad 2um verdlaunum fyrir refadráp árid seinasta; vóru hvør þeirra ad upphæd 8 rbd og hlotnudust: Haldóri syni Haldórs hreppstjóra á Hrauntúni í Þíngvallahrepp, sem drepid hafdi 18 dýr fullordin og 10 yrdlínga. Hin verdlaunin fékk hrepp=stjóri Vilhjálmur Christinn Hákonarson á Kyrkju=vogi á Sudurnesjum fyrir unnin 24 dýr. Þá var

líka hreppstjóra Þorsteini Jónssyni á Ivarshúsum í Gardi, veittir ad heidurs gjøf 20 rbd. fyrir kostnadarsama og ervida endurbót, þeirrar svonefndu Rothúsa varar, sem sannadist nú ad géra verid naudlendíng bædi fyrir Inn- og Út-Gards innbúa, og mátti því svo álíta, sem atorka hreppstjórans hefdi unnid mikid naudsynja- og þarfa-verk sjófarendum. Vid vørina hafdi hann starfad med 14 manns í 9 daga. Ad lyktum ánafnadi félag vort Gnúpverjaheppsins tún- og jardabóta félagi 20 rbd. ad gjøf, til framkvæmdar beggja félaga sameginlegum tilgángi.

Mér hafa til handa borist á næstlidnu hausti 3 verdlaunabeidslur, þúfnasléttun og gardhledslu vidkomandi, frá Skaptafells- Rángárvalla og Borgarfjardar-sýslum; bar eg þær fram á ádurnefndum fundi, en þad var sameginlegt atkvædi félagsmanna, ad þær yrdu ekki ad álitum gjørdar, fyrr enn á næsta vetri, því þad tveggja ára tímabil, sem á félagsfundi 5 Júlii 1843 ætlad var til ad vinna fyrir þeim þá heitnu jardarbóta verdlaunum, er ei útrunnid, fyrr enn í haust ed kémur, hvad líka er øllum kunnugt gjørt med auglýsíngu félagsins haustid 1843. Er því mín vinsamleg bón til félagsins heidrudu fulltrúa í ádurnefndum sýslum, ad þeir láti þá vita þetta, sem hlut eiga ad bænarskránum, hvør í sínu umdæmi: en þad eru þeir Gísli Jónsson á Grøf í Skaptafells sýslu, Jón Einarsson á Oddhól í Rángárvalla sýslu og Jón Haldórsson á vestri Leirárgørdum í

Borgarfyrdi: og hvetji þá til, ad bæta vid þad gjørda, á næsta vori og hausti, svo þeir verdi því vissari um bænheyrslu. Fái eg fyrir næstu jól ávísun um ad nokkru og þá hve miklu sé af þessum mønnum vidaukid, skal þad, ásamt því eldra, verda af mér undir félagsins álit lagt, á réttum tíma, ef eg þá hefi nokkur afskipti af høgum félagsins. Reikníngur fyrir inn- og út-gjøld félagsins, árid 1844, var á fyrrnefndum adalfundi framlagdur, gagnskodadur og réttur fundinn. Sýnir hann: ad félagsins inngjøld vóru á reikníngskapar árinu 221 rbd 67 sk. en útgjøld 48 rbd. 68 sk.; ad vaxtafé félagsins aukist hafdi um 175 rbd. og: ad peninga eign þess, ad útistandandi skuldum medtøldum, nú er 2,964 rbd. 10 sk. Loks má þess géta, ad á þessum fundi bættist félaginu heidursverdur medlimur í *Studiosus philologiæ magnæ* Gísla Magnússyni, og fyllir hann skard nokkurra þeirra, sem á því lidna ári høfdu sagt sig frá skuldum og tilløgum vid félagid.

Skrifad í Febr. mánudi 1845.

Þ. Sveinbjørnsson.

---